

# NÝA ÍSLAND Í KANADA

ÁREIÐANLEG LÝSING Á LEGU OG ÁSIGKOMULAGI LANDS ÞESS, ER KANADA STJÓRNIN HEFIR AFMARKAÐ TIL ÍSLENDINGA BYGGÐAR, OG FULL SKÝRSLA UM, MEÐ HVERJUM KOSTUM LAND ER VEITT ÓKEYPIS, OG UM FERÐA KOSTNAÐ ÞANGAÐ, O. S. FRV.

Í TVEIM SKÝRSLUM.

I.

SKÝRSLU HERRA JÓNS TAYLORS, UMBOÐSMANNS STJÓRNARINNAR.

II.

SKÝRSLU SENDIMANNA NOKKURRA ÍSLENDINGA, ER FLUTTU ÚT 1874.

ÚTGEFIÐ AÐ TILHLUTUN KANADA STJÓRNARINNAR.

*Umboðsmenn Íslendinga:*—W. C. KRIEGER.
SIGTRYGGUR JÓNASSON.

OTTAWA, KANADA.
1875.

# INNGANGUR

## NÝA ÍSLAND Í KANADA.

---

Sumir lesendur vorir muna, ef til vill, eptir því, að nokkrir Íslendingar, nálægt 350 að tölu, fóru frá Íslandi til Kanada árið 1874. Þeir sem þekkja til landa í þessum hluta heims, vita, að Vesturheimur er meginland mikið fyrir vestan haf; er það meira en allt meginland Norðurálfunnar. Norðurálfu byggja margar þjóðir, og er henni því skipt í mörg ríki, svo sem Danmörku, Svíaríki, Rússland, Frakkland, Þýzkaland, Holland, Niðurlönd, England, o. s. frv.

Vesturheimur er lítt skiptur. Allur norður hlutinn frá heimskauti og suður að breiddarstigi því, er Parísarborg liggur á, liggur undir Bretland hið mikla. Nær svæði þetta nálega yfir 136 þingmanna leiðir. Landsmenn eru 4 miljónir, og hafa stjórn sér. Í raun réttri skipa landsmenn sjálfir menn í stjórn sína, þareð þeir kjósa þingmenn sína. Landið hefir enzkan landstjóra eða jarl. Stjórn þessi er kölluð "Stjórn Kanadaríkis." Ræður hún í raun réttri yfir öllu þessu hinu mikla landi. Stjórnarskipunin er frjálsleg. Lögin geyma hvers manns réttar. Hverr maður á griðastað í húsi sínu, og hefir

hann rétt til að neita hverjum manni ingöngu, nema hafi hann sjálfur glæp framið. Svo sem auðvitað er, er allmikið enn óbyggt af landi þessu hinu mikla. Fyrir því getur stjórn Kanadaríkis boðið land ókeypis hverjum landnámsmanni, sem vill ryðja það og yrkja. það er og auðvitað, að menn hafa eigi jafnmikla vernd eigna sinna, þar sem byggð er lítil, og þar sem fjölbyggt er. Allt er þó landið friðlegt, enda er það allt undir vernd stjórnarinnar. Má því segja, að lífi manna og eignum sé þar fullt eins óhætt og á Íslandi.

Hið annað ríki í norðurhluta Vesturheims nefnist "Bandaríki;" það liggur eigi undir Breta stjórn. Land hefir það nálega jafn mikið og Kanadaríki, en byggð meiri. Landsmenn eru 40 miljónir, en 4 miljónir einar í Kanada. Fyrir því er allt hið bezta land í Bandaríkjunum numið. Hafa landnámsmenn þar verið: þjóðverjar, Svissarar, Frakkar, Englendingar, Svíar, o. s. frv. Hinns vegar er Kanada stjórnin nú að vísa landnámsmönnum á hið bezta landið. Íslendingum einum er nú ætlað mikið svæði af þessu landi, nálægt fylkinu Manitoba, er liggur undir Kanadaríki, og er þar búsæld mikil. þessu landnámi Íslendinga á að gefa nafnið Nýa Ísland.

Af skýrslu Herra Taylors, umboðsmanns stjórnarinnar, sjáið þér, hvernig honum lízt á landið. þó munuð þér meta meir skýrslu landa yðvarra, en af henni sjáið þér og, hversu þeim þykir það byggilegt, hve góðir eru þar landkostir, og lega þess haganleg. Sjá munuð þér, að loptslag er þar blíðara en á Íslandi. þér munuð og sjá, að það liggur rétt við vatn mikið, sem fullt er af fiskum. Einnig munuð þér sjá, að þar er land gott til akuryrkju, að þar eru hagar góðir fyrir nautpening, og að þar er viður nógur til húsa, báta og girðinga. Ennfremur munuð þér sjá, að það er ekki langt frá fylkinu Manitoba, sem nú er byggt orðið; á sumrum má þangað fara vatns leið, og á vetrum á

sleðum. Innan skamms mun og járnbraut verða nærri því, svo sem Herra Taylor segir í skýrslu sinni.

Járnbraut sú, er Kanada stjórnin ætlar að leggja, mun gjöra samgöngur greiðar milli allra þessara upplanda Kanadaríkis, er ná nálega yfir 46 þingmanna leiðir, og Norðurálfunnar. Ef þér gætið að landabréfinu, munuð þér sjá, að þér getið, einsog er, á sumrin farið langan veg vatns leið til Nýa Íslands, ef þér farið eptir hinni miklu á St. Lawrence, og eptir vötnunum Ontario, Huron, Erie og Efra Vatni; en þessi vötn má kalla höf inní landi. Innan fárra ára munu menn geta farið frá Englandi til Manitoba eður Nýa Íslands á skemmri tíma en 20 dögum, og ef til vill, á 15 eða 16 dögum. Land það, er Kanada stjórn nú býður yður fyrir ekkert, mun því komast í mikið verð, og þér munuð geta skilið börnum yðar eptir þá arfleifð, sem verður mikils virði. Þér munuð og sjá, að þeir, sem fyrst fara, eiga kjörið bezt. Hinns vegar eru þeir, sem síðar fara, þó betur farnir að því leyti, að þeir finna byggð í landinu og marga landa sína, er geta gefið þeim góð ráð. Í Nýa Íslandi og þarí grend er nóg landrými fyrir alla Íslendinga, og fyrir tuttugu sinnum fleiri lengra vesturfrá í þessu hinu óbyggða landi. Kanada stjórn hefir skipað tvo umboðsmenn, er þekkja landið, til að gefa landnámsmönnum ráð og tilsögn, og er þeim óhætt að trúa því, er þeir segja. Annarr þeirra er Herra W. C. Krieger; verður hann í sunnanverðu Islandi hinn er Herra S. Jónasson, og verður hann í því norðanverðu.

Þér munuð sjá af skýrslu Herra Taylors, að hann hefir þegar farið með nokkrum hundruðum Íslendinga til að taka við þessari ágætu gáfu Kanada stjórnarinnar.

Nú er eigi annað eptir en að kveða skýrt á, hverja hjálp Kanada stjórnin býður Íslendingum þeim, er vestur flytja, og með hverjum kostum þeir geta fengið landið, er þeir koma þangað.

Þegar íslenzkir landnámsmenn koma til Quebec, mun Kanada stjórnin gefa hverjum manni fararseðil, og kostar hann fyrir hvern mann 13 dollars, eður 47 krónur og 67 aura í íslenzkum peningum. Geta þeir farið fyrir þennan seðil frá Quebec til Manitoba; sjálfir verða landnámsmenn og að kosta far sitt frá Íslandi til Quebec. Nokkuð mun og kosta að komast frá Manitoba til Nýa Íslands, en þó eigi mikið. Fæði er landnámsmönnum gefið frá Quebec til Toronto, en frá Toronto verða þeir sjálfir að sjá sér fyrir nesti. Í Toronto er gott til matkaupa, þvíað brauð og kjöt er þar með lágu verði.

Þegar landnámsmenn koma til Nýa Íslands eiga þeir kost á að kjósa sér þar land, er aðrir landar þeirra hafa eigi áður numið.

Hverr landnámsmaður, sem fullvaxta er, mun fá land, sem er 212 dagsláttur (160 ekrur) að stærð, með því skilyrði, *að hann reisi bú á því, og búi þar í* ÞRJÚ ÁR. Landið mun mælt verða, og fengið honum til ábúðar. Honum mun og fengið bréf, er ákveður landa merki hans. Í þrjú ár verður gætt eignar réttar hans til landsins; en sleppi hann landinu fyrir þann tíma, og fari burt, hefir hann fyrirgjört eignar rétti sínum. Þegar hann hefir búið þrjú ár á landinu og yrkt nokkurn hluta þess, mun stjórnin gefa honum staðfestu bréf fyrir því, og verður það þá fullkomin eign hans.

Þér sjáið, að hverjum manni fullvaxta eru gefnar 212 dagsláttur. Nú á faðir son fullvaxinn, og fá þeir þá báðir hálfu meira land, eður 424 dagsláttur (320 ekrur), allt í einni spildu. Nú á faðir fimm syni vaxna, og fá þeir þá allir samt 1300 eður 1360 dagsláttur, og er það væn jörð. Allt fær landnámsmaðurinn land þetta ókeypis. En muna verðið þér, ad land þetta er ekki yrkt. Landið er óbyggt og óræktað, og er landnámsmanninum ætlað að rækta það og gjöra það nokkurs virði; hann verður og að ryðja það, ef það er skógi vaxið. Sjálfur

verður hann að reisa bæ sinn, og í einu orði að segja, hann verður sjálfur að leita sér gagns og gróða. Nú eru margar þúsundir auðugra manna í Vesturheimi er snauðir komu þangað, eður alls lausir, að kalla má. Þeir byrjuðu búskap á þenna hátt. Þar sem eignir þeirra voru áður óyrkt land og skógar, eru nú fagrar og ágætar jarðir, og sumstaðar borgir með miklum blóma.

Vili landsnámsmaður, sem einhleypur er, fá meira land en 212 dagsláttur, er það honum falt látið, 4 dagsláttur fyrir 11 krónur, en þó eigi meira en 860 dagsláttur. Hann fær 212 dagsláttur ókeypis, en verður að greiða 11 krónur fyrir hverjar 4 dagsláttur, sem hann fær þar fram yfir. En vér höfum sýnt, að þar sem nokkrir menn fullvaxnir eru í heimili, þá fá þeir mikið land.

Nú er eigi annað eptir en að ráða Íslendingum til að lesa skýrslur þær tvær, sem hér koma á eptir, og dæma svo sjálfir. Vera má, að ymsum erfiðleikum verði að mæta, og mikið á sig að leggja; en lesendur vorir munu og sjá, að til mikils er að vinna. Þó skyldi enginn sá fara, er eigi er fús að leggja nokkuð í sölurnar nú, svo hann megi gagn hafa síðar. Eigi skyldi heldur nokkurr halda, að allt verði í ljúfa löð lagið og þægilegt. Vegur er langur og aðrir örðugleikar; en hraustur maður og einbeittur þarf ekkert að óttast. Heilsuleysingjum, ráðleysingjum og letingjum er betra að vera kyrrum heima.

## BRÉF HERRA JÓNS TAYLORS.

*Fort Garry, Manitoba, Kanadaríki,*
11. Ágúst, 1875.

TIL RÁDGJAFA AKURYRKJU MÁLANNA.

Eg hefi fylgt sendimönnum Íslendinga frá Ontario til Manitoba og Útnorður landsins, og legg eg hér fram skýrslu um ferð vora. Er hún á þessa leið.

Herra Codd umboðsmaður ríkis landanna í Fort Garry

réði sendimönnunum til að kanna landið vestanvert við Winnipeg vatnið, og gjörðu þeir svo.

Þeim þótti landið frá landamerkja línu Manitoba fylkis og norður að Littla Hverfusteinsnesi (Little Grindstone Point) vel fallið til byggðar, og þó einkum land það er liggur fram með Íslendinga fljóti (White Mud river), sem rennur í útsuður, suður frá Hverfusteinsnesi.

Innanríkis ráðgjafinn var beðinn að láta Íslendinga eina hafa land þetta. Varð hann vel við bæn þessari, og lét oss vita, að Íslendingar mætti þegar taka að byggja landið. Á leiðinni til Manitoba komu þrír Íslendingar í för vora. Þeir komu fra Wisconsin. Hafa nokkrir landa þeirra verið þar í nokkur ár, en ekki eru þeir þar ánægðir, og hafa heldur eigi sezt þar að fyrir fullt og fast. Þareð þeir hafa jafnmikinn hug og vér á landnámi Íslendinga í Manitoba, tók eg þá í flokk vorn, og vona eg, að þér mótmælið eigi þeim auka kostnaði, er þetta gjörði. Þessir menn hafa skýrt löndum sínum frá förinni og látið yfir hið bezta. Þeir hafa og ráðið það af, að vera kyrrir í Manitoba, þangað til landar þeirra fara að byggja landnám sitt.

Af Íslendingum þeim, sem eru hér og hvar í ríki þessu og í Bandaríkjunum, bíða nálægt 50 heimili eptir aðgjörðum stjórnarinnar. Vona þeir þess með áhuga miklum, að þeir fái svo mikla hjálp, að þeir geti þegar farið til landnáms síns, og komið þar svo tímanlega, að þeir geti heyað handa nautpeningi, og aflað sér fisks og villidýra til vetrar forða.

Íslendingar treysta örlæti stjórnarinnar, sem Mennónítum hefir orðið að svo miklu gagni. Biðja þeir auðmjúklega um hjálp handa hinni "Nýu Íslendinga byggð," svo að hún megi hjálpast, meðan hún er enn í barnæsku, og löndum þeirra heima á Íslandi megi þykja fýsilegt að leita þangað, og búa þar við betri landkosti; muni byggðin þá brátt fá vöxt og viðgang.

Sæmd tel eg mér að vera yðar auðmjúkur þjónn,

JOHN TAYLOR.

# I.

## SKÝRSLA HERRA JÓNS TAYLORS.

*Ottawa*, 10 Sept. 1875.

TIL RÁÐGJAFA AKURYRKJU MÁLANNA.

Þetta hefi eg að láta yður vita um landnám Íslendinga.

Íslendingar þeir, er um stundar sakir búa í Ontario og í Bandaríkjunum, sendu greinda menn í landa leit, og eru þeir nýlega komnir aptur úr þeirri för. Þeir segja, að ferðin hafi gengið að óskum; að þeir hafi fundið gott land út sunnan til með Winnipeg vatninu; landkostir só þar hinir beztu, hagar góðir og fiskur mikill; og þetta gjöri landið hið byggilegasta fyrir landa þeirra.

Að bæn þeirra hefir Kanada stjórnin afmarkað þeim svæði nokkuð; liggur það rúmar tvær þingmanna leiðir fram með sendinni vatns strönd; er þar góð lending fyrir báta, og hvervetna má vel viðkoma vörpum eða dráttarnetum, þvíað hvergi eru steinar í botninum.

Eg var leiðtogi sendimanna þessara, og hefi eg stuttlega skýrt frá hinum miklu kostum landnáms þessa á þessa leið.

1. Það er langt frá leið engisprettanna, og hefir þessi plága aldrei gjört þar neitt mein.

2. Það er auðvelt að komast þangað. Landnámsmenn fara alla leið frá Quebec til Nýa Íslands á járnbrautum eða á gufuskipum.

3. Þar eru hagar miklir og hin beztu mýrarengi; fást 20 til 30 hestar af kjarngóðu heyi af dagsláttunni.

4. Fiskiveiðar eru þar miklar. Vatnið er 13 þingmanna leiðir á lengd; botninn er sendinn ag grjótlauss og dýpkar jafnt frá bakkanum; má því vel viðkoma alls konar veiðibrögðum; er því nægan fisk að fá allt árið

um kring. Hér má og geta þess, að við vatnið er gnægð mikil af alls konar vatnsfuglum. Á vissum tímum árs er hér svo mikill fjöldi gæsa og anda, að undrum gegnir.

5. Hvergi er betra hveiti yrkju land í Kanada ríki en hér. Jarðvegurinn er svört mold 3 til 4 feta djúp eða meir, alveg ógrýtt, og undir henni er seigur og hvítur leir, sem hafður er til að gjöra tígulsteina. Fást rúmar 7 tunnur hveitis af dagsláttunni, og aðrir kornvextir vaxa jafn vel. Jarðepli og aðrir rótarvextir vaxa hvergi betur en hér. Ekki þarf áburð neinn. Mjög er hægt að ryðja landið, þvíað skógurinn er mjög smár. Eigi þarf heldur að plægja landið áðuren korni er sáð; hefir það þennan kost framyfir hið skóglausa "prairie land."

6. Þó er nægur viður til húsa, girðinga og eldiviðar. Þar er og allmikið af viði, er vel selzt. Við nyrðri landamerkin er og steintak gott, þar sem kallað er Hverfusteinsnes eða Kvernsteinsnes.

7. Landnáminu heyrir og til ey ein í vatninu; hún er nálægt tveim þriðjungum þingmanna leiðar á lengd; ver hún landið fyrir vatnsgangi. Milli landsins og eyarinnar er höfn hin bezta; hún er nálægt viku sjávar á breidd, og botninum er bezta atkerisfesta. Íslendinga fljót fellur út í höfnina, og er ósinn 200 til 250 faðma breiður. Fljót þetta hefir verið kannað nálægt þingmanna leið upp eptir; landið beggja vegna fram með því er hið bezta, og verður þó því betra sem lengra dregur upp eptir; fljótið rennur í útsuður. Aðrar ár falla og í vatnið. Kynlegt vatn er rétt hjá Winnipeg vatninu naumlega meira en viku sjávar á lengd; skilur sandhryggur einn milli þeirra; en stundum í rigningum falla þau saman; grefur þá vatnið skurð gegnum sandhrygginn, sem eigi er meira en 16 faðma breiður; en næst þegar hvessir, fyllist hann aptur.

8. Vatns leið er frá landnáminu á alla vegu; er það mikið hagræði, og verður þó meira í það varið, þegar landið er

fullbyggt. Rauðará er 30 til 35 þingmannaleiðir á lengd; í hana fellur áin Assiniboine við staðinn Winnipeg, er nú blómgast mjög. Þessar ár eru suður frá Winnipeg vatninu. Winnipeg áin er austur frá því; og hin mikla Saskatchewan á er útnorður frá vatninu. Gufubátar fara uppeptir þessari miklu á nálega upp að Klettafjöllum (Rocky Mountains); og vöru bátar fara nálega 60 þingmanna leiðir upp eptir henni. Úr Winnipeg vatninu rennur Nelson áin norður í Hudsonflóa. Landnámið liggur því mjög vel fyrir vatns vegum þessum. Er það ekki að efa, að hin ágæta höfn landnámsins verður samkomustaður skipa úr öllum áttum.

9. Hin mikla Kanada járnbraut til Kyrra hafsins liggur rétt fram hjá suður hluta íslenska landnámsins; þarf ekki annað en minnast hér á, að það yrði mikill hagur fyrir byggðina, er svo greið leið fæst bæði til Atlants hafs og Kyrra hafsins.

Þegar Englendingum verða ljósir hinir miklu kostir "Nýa Íslands," munu þeir glöggt sjá, að hinum ríkulegu gjöfum til Íslendinga þeirra, er orðið hafa fyrir hinu óttalega tjóni af eldgosinu á Íslandi, verður ekki betur varið en til að styrkja þá til að flytja úr landi því, er þeir unna svo mjög, þótt byggilegt land minnki þar stöðugt, og það sé ekki eins fýsilegt til byggingar og Nýa Ísland. Englendingar munu því sjá, að gjöfunum verður ekki betur varið en að styrkja þá til að flytja til landa sinna við Winnipeg vatnið; þar verða þeir og hluttakandi í hinni örlátu hjálp, er allir landnámsmenn fá, þeir er til Kanada koma, hvaðan sem þeir eru; með því er og stutt gagnlegt fyrirtæki, og fýsilegur bústaður gjörr öllum Íslendingum.

Eg hefi leyft mér að ávarpa yður á þenna hátt, þareð eg treysti því, að aðal umboðsmaður yðar í Lundúnum noti það, sem hér er sagt og bent á, til að kynna mönnum á Englandi Útnorður land Kanada ríkis, þvíað það virðist

enn lítt kunnugt þar, og einnig til að styrkja landnám Íslendinga, sem mér er svo annt um.

Eg er, nú að leggja af stað frá Ottawa til að fylgja nokkrum hundruðum Íslendinga til Winnipeg vatnsins, þarsem þeir hafa nýlega kosið sér bústað. Þykist eg ekki geta gjört þeim eða löndum þeirra betri greiða, en að senda yður skýrslu þá, sem gefin er hér að framan. Bið eg yður svo vel gjöra og veita henni eptirtekt, þareð landnáms mönnum þessum hefir orðið svo mikill hagur að því, er þér hafið sinnt þeim.

Sæmd tel eg mér að vera yðar auðmjúkur þjónn,

John Taylor.

II.

# SKÝRSLA

## HINNA ÍSLENZKU SENDIMANNA 5. ÁG. 1875.

Þorp eitt heitir Kinmount, er liggur í fylkinu Ontario innan Kanadaríkis. Þar héldum vér Íslendingar fund 30. Maímánaðar 1875. Ræddum vér þar um hagi vora í Vesturheimi, og einkum um það, hver nauðsyn á því væri að stofna eina íslenzka byggð. Vér, sem ritum nöfn vor undir skýrslu þessa, vorum kjörnir að fara vestur til Manitoba, og skoða fylkið, til að vita, hvort það væri gott til byggingar fyrir Íslendinga. Ef oss reyndist svo, báðu fundarmenn oss að velja svo margar þorplendur, sem vér hygðim þurfa til byggðarinnar, og skýra þeim frá þessu, er vér kæmim aptur.

Hér gefum vér þá skýrslu vora um þetta efni.

Vér lögðum af stað frá Toronto hinn 9. Júlímánaðar, og héldum til Chicago. Alla leiðina fórum vér á járnbraut til Mýrarhöfða (Moorhead); það er þorp eitt lítið við Kyrra hafs járnbrautina, og rétt hjá á þeirri, sem kölluð er Rauðará (Red River). Þessi á er skipgeng héðan frá til Winnipeg, en það er höfuðborg fylkisins Manitoba. Winnipeg liggur þarsem áin Assiniboine rennur í Rauðará. Þar er og Fort Garry hinn alkunni verzlunarstaður Hudsonflóa félagsins. Eigi viljum vér hér tala um vegalengd frá Toronto til Mýrarhöfða, því að miklu munar, hver leið er farin; en sérstaka skrá skulum vér gefa yfir

vegalengd frá Toronto eptir leið þeirri, er landnámsmenn fara jafnaðarlega. Frá Mýrarhöfða til Winnipeg eru taldar 22 þingmanna leiðir og hálf eptir ánni, en einar 9 þingmanna leiðir landveg. Má af því sjá, að áin rennur mjög í bugum. Frá Mýrarhöfða fórum vér hinn 13. Júlí, og komum til Winnipeg hinn 16. Sunnudaginn hinn 11. urðum vér að bíða í St. Paul's hálfan dag.

Áður en vér förum lengra, viljum vér segja fáein orð um Manitoba. Margir ætla, að fylkið Manitoba, eða Rauðará, því svo kalla það sumir, nái yfir allar eignir Breta, frá landamerkja línu Bandaríkjanna að sunnan, og norður að Hudson flóa; og frá Efra Vatni (Lake Superior) að austan, og vestur að Klettafjöllum (Rocky Mountains). Þetta er eigi svo, þvíað allt þetta svæði heitir réttu nafni Útnorðurland. Fylkið Manitoba er aðeins lítill hluti þessa hins mikla svæðis. Í suður hluta þess eru víðast landkostir góðir. Hið 49. breiddarstig er landamerkja lína milli eigna Breta og Bandaríkjanna, vestur frá Efra Vatni. Manitoba fylkið nær suður að þessari landamerkja línu, og þaðan tæpar 5 þingmanna leiðir norðureptir; eru þá hérumbil 3 þingmanna leiðir á 49. breiddarstigi, en 2 á 50. breiddarstigi. Frá austri til vesturs er það rúmar 6 þingmanna leiðir, eður frá 96. hádegisbaugi, sem við Greenwich er mældur, og til hins 97. Rauðará fellur sunnan og litlu austar en í mitt fylkið, og svo í gegnum það til landnorðurs, þartil er hún fellur útí Winnipeg vatn; áin er skipgeng niðurí vatn. Tvö eru þar stór vötn, og liggja þau frá landsuðri til útnorðurs; hið vestara er kallad Manitoba vatn, en hið eystra Winnipeg vatn. Manitoba vatn gengur nær því þingmanna leið inní norður hluta fylkisins, en engar stórár falla í það þeim meginn. Winnipeg vatnið gengur tæpan einn þriðjung þingmanna leiðar inní fylkið, og þar fellur hin mikla Rauðará út í suður endann á því. Allt árið um kring er

mikil veiði í vatni þessu. Við landamerkja línu fylkisins, eru tæpar tvær þingmanna leiðir milli vatna þessara, en rúmum 2 þingmanna leiðum lengra norður er nær 4 þingmanna leiðum milli þeirra.

Nú viljum vér snúa aptur þangað, er vér hættum frásögninni. Þegar vér komum til Winnipeg, fórum vér þegar til umboðsmanns stjórnarinnar með bréf frá landmælinga manninum i Ottawa. Sýndi hann oss landabréf og uppdrætti fylkisins Manitoba; benti hann oss á land það er numið var óg ónumið. Sáum vér þá, að ekkert land var ónumið í fylki þessu, er vér ætluðum gott og girnilegt Íslendingum, og urðum vér lengra að leita. Hugðum vér þá bezt ráð vera, að leita fyrir oss norður af fylki þessu, við vötn þau, er vér höfum áður talað um. Eigi hefir landinu verið skipt í þorplendur norður af Manitoba fylki, en þó hefir ströndin verið mæld. Af mælingu þessari ætluðum vér, að vestur strönd Winnipeg vatnsins, norður frá landamerkja línu Manitobafylkis, mundi staður líklegastur fyrir byggð Íslendinga. Vér fórum frá Winnipeg hinn 20. Júlí niður eptir ánni; léði Hudsonflóa félagið oss stóran bát til ferðarinnar. 'A leiðinni niður eptir ánni fengum vér minni bát til að kanna hinar smærri ár.

Vér höfðum góðan fylgdarmann; hafði hann áður verið með manni þeim, er strendurnar mældi. Tvo aðra kynblendinga höfðum vér einnig. Nú viljum vér lýsa þeim landshluta, er oss þótti byggilegur; það er vestur strönd Winnipeg vatnsins frá landamerkja línu Manitobafylkisins, eða hérumbil 2 þingmanna leiðir norður eptir, en aðeins hálfa þingmanna leið vestur í landið.

Tvær þorplendur, eður fjórðung þingmannaleiðar norður eptir og hálfa þingmanna leið vestur eptir, voru mældar norður frá landamerkja línu fylkisins. Allar þessar lendur eru vaxnar öspum; sumstaðar eru þó mýrar

og rjóður grasi vaxin. Öll eru trén smá og eigi mjög þétt.

Jarðvegurinn er mjög góður til ræktunar; hann er svört mold, er liggur ofaná leiri.

Hérumbil fjórðung þingmannaleiðar norður frá þessum stað liggur ey ein, sem kölluð er Víðirey, fram undan nesi því er Víðirnes kallast. Hér er land og skógur líkur því. sem sunnar er, en þó eru nokkrir víðirlundar á nesinu og á ströndinni þar í kring. Steinar nokkrir eru í vatninu fram undan nesinu, en landið er klettalaust og grjótlaust.

Hérum hálfa þingmanna leið norður frá þessum stað er lítil á, sem kölluð er Dunkin River. Hún er öllu heldur óss, sem kemur útsunnan að, og rennur útí poll eða lítið vatn fyrir ofan bakka Winnipeg vatnsins, og er þar aðeins mjór sandhryggur á milli. Vér viljum því kalla á þessa Leynivíkurá. Fram með ánni gengur land útí vatnið, og er breið vík milli þess og Víðireyar; að norðanverðu við oddann er og önnur vík, milli hans og næsta odda. Allt í kringum þessa syðri vík er landið hið bezta til ræktunar; það er klettalaust og grjótlaust; að mestu er það vaxið öspum, en lítil grasrjóður hingað og þangað.

Nálægt þingmanna leið norður héðan liggur Sandrif; gengur það í austur framúr nesi einu breiðu, er liggur útí vatnið. Rif þetta er 1088 faðma langt, og er höfn stór fyrir norðan það. Hérumbil bæar leið austur frá rifi þessu er suður endi eyar þeirrar, er Mikla ey kallast. Ey þessi liggur frá útsuðri til landnorðurs, og svo gjörir meginlandið gagnvart henni. Sundið milli landsins og eyarinnar er alstaðar hérumbil jafnbreitt, eða tæpa viku sjávar meira eða minna.

Eyan er tæpa 3 fjórðunga þingmanna leiðar að lengd, ogj fórðung þingmanna leiðar á breidd að jafnaði. Skógur

þar er einkum fura. Að vestanverðu er eyan lág og mýrlend, en að norðanverðu klettótt og grýtt. Austantil á eynni er sögunarvél, og rekur hana gufuafl. Félag það er á hana, hefir rétt til skógarhöggs á eynni, þangað til járnbraut er lögð frá Rat Portage til Rauðarár. Félagið hefir höggvið og sagað mjög lítið af trjáviði, og mikið af því, sem sagað hefir verið, er enn á eynni. Ekki gengur vélin nú, þótt hún sé í góðu lagi.

Hérumbil bæar leið norður frá Sandrifi er á, sem fellur frá útsuðri útí höfnina; hún hefir verið kölluð Whitemud River, en vér höfum kallað hana Íslendinga fljót. Upp eptir á þessari fórum vér, í stóra bátnum þriðjung þingmanna leiðar, en þá komu brot og fljót í milli. Litla bátnum einum gátum vér komið yfir brotin, og fórum vér þá góðan spöl lengra; en alls komumst vér þrjá fjórðunga þingmanna leiðar frá árósnum; er það, ef til vill, ekki nema hálf þingmanna leið, þegar beint er farið. Þar sem vér snerum aptur, er nokkuð stórum báti gengt eptir ánni, þvíað hún er þar djúp.

Höfnin er hérumbil viku sjávar á lengd. Fram með henni og beggja meginn árinnar eru grasmýrar; um þenna tíma árs eru þær næstum þurrar. Mýrarnar ganga upp með ánni hérumbil hálfa bæar leið, og mjókka eptir því sem lengra dregur upp eptir. Góður er hagi á mýrum þessum. Þegar mýrunum sleppir, tekur við valllendi slétt, og er þar slæa einkar góð. Hér og þar eru víðirrunnar, og virðist svo víða, sem þeir hafi verið þar gróðursettir. Valllendið nær hálfa bæar leið upp með ánni, en fulla bæar leið er það á hinn veginn.

Er vér héldum lengra upp með ánni, urðu fyrir oss víðirbörð, svo og furuskógar nokkrir; þeir eru og lengra suður með vatninu. Þar er og álmur, eik og birki. Sumstaðar er skógurinn mjög þykkur en svo smár, að trén eru eigi til annars nýt en til girðinga, þarsem þau standa.

þar sem trén standa þétt, er skógurinn nýr, þvíað skógur þessi brann fyrir nokkru. þar sem trén eru gisnari eru þau stærri. Aspirnar eru að jafnaði minna en fet að þvermáli, en nokkrar finnast þó digrari. þar sem furan vex er all mikið af góðum húsavið. Eigi er þó landið alþakið skógi frá því er aspirnar taka við á árbökkunum, þvíað beggja meginn árinnar, þar sem vér fórum, fundum vér mýrar grasi vaxnar og valllendi innanum skóginn hvervetna.

Að jafnaði eru ekki meira en 400 faðmar milli grasblettanna. þrjá fjórðunga þingmannaleiðar upp með ánni, eða hálfa þingmanna leið, þegar beint er farið, eru grasengi, og víðirrunnar hér og þar einsog niður við árósinn. Gras það er vex á mýrunum, er kallað "bláliðsur," og er það 4 og 5 feta hátt. En þar sem þurt er, vex gras, sem líkt er "prairie grasi," og er það 3 og 4 feta hátt, og opt hærra.

Jarðvegurinn fram með ánni er hinn sami og á stöðum þeim, sem vér höfum lýst, það er, svört mold ofaná hvítum leiri. Sé nokkurr munur, þá er hann í því fólginn, að meira kalk er í jarðveginum hér. Sunnanvert við höfnina, þar sem vér fórum, er jarðvegurinn og hinn sami; en við norður endann er hann ójafn og grýttur. Segja má um allt það land, sem vér höfum lýst, að það sé slétt, en veitir þó öllu lítið eitt niður að vatninu, og lágir hryggir eru sumstaðar.

Fjöruborðið og botninn í vatninu eru sandur eða smágrjót. Er vatnið grunnt nærri bakkanum, svo vér ætlum, að þar megi hafa dráttar neta veiðar, þótt ekki hafi það enn reynt verið.

Slæu löndin eru bezt fram með Íslendinga fljóti, en þó ætlum vér, að nægar slæur megi fá hvervetna í landnámi þessu. Getur því landnámsmaðurinn þegar haft svo margar kýr sem hann vill. Eigi teljum vér efamál á því, að

landið er hið bezta til kornyrkju, og betra en hið allra bezta land, sem vér höfum séð í fylkinu Ontario.

Að vísu höfðum vér eigi færi á að sjá, hvað landið gæti gefið af sér. En, að voru viti, er jarðvegurinn eins góður og í hinum betri sveitum Manitoba fylkisins. Er það þá auðsætt, að afraksturinn verður hinn sami, þareð enginn verulegur munur er á loptslagi. En sjálfir sáum vér góð jarðepli, er Indíanar höfðu sett niður í Júnímánuði, og einnig Rauðarár korn, sem svo er kallað; óx hvorttveggja þetta við Íslendinga fljót. Við suður endann á Winnipeg vatninu yrkja menn gott hveiti, jarðepli, grjón, hafra og Rauðarár kornið; heppnast allt þetta vel, þvíað eigi hafa engisprettur komizt svo langt norður eptir. Hvar sem víðir vellir eru, hafa engi sprettur þessar eytt nálega öllu korni og grænum jurtum fram með Rauðará, sunnan frá landamerkja línu Manitoba fylkis og norður að árós. En þar sem skógar eru, hafa þær engan skaða gjört. Hálfa þingmanna leið vestur frá bænum Winnipeg sáum vér hveiti, er þótti illa sprottið, en vér ætluðum að mundi gefa 2 eða 3 tunnur af dagsláttunni. Vér sáum og hafra, grjón, jarðepli og kál, er spratt vel.

Jafnaðarlega eta engispretturnar fyrst hveitið og hafrana, en skilja eptir grjónin, baunirnar og jarðeplin, þangað til allt hitt er etið. Flestar af engisprettum þessum eru nú farnar úr Manitoba, og hafa eigi skilið nokkur egg eptir. Hinar fáu, sem eptir eru, eru svo lúsugar, að þær geta engan skaða gjört lengur. Manitobamenn þykjast nú vita með svo fullri vissu, að þeir sé nú lausir við engispretturnar um stund, að þeir eru nú að plægja akrana til sáningar á næsta vori. Margir sáðu eigi í vor, þvíað þeir hugðu, svo sem varð, að engisprettur mundu koma úr eggjum þeim, er þær lögðu í fyrra sumar, og eta kornið.

Um fiskiveiðar í Winnipeg vatninu getum vér talað af

eigin reynd. Þar er fjöldi fiska af ymsu tagi. Indíanar hafa neta veiði í vatninu allt árið um kring, og lifa á fiskiafla sínum; þóttu oss þó veiðarfæri þeirra léleg, og svo lítur út sem þeir aldrei reyni fyrir sér nema rétt upp við land. Á haustin fiskast mikið af hvítingi, og á vetrum er hann veiddur á dorg upp um ísinn. Ekki er að efa, að fiskur þessi verði góð verzlunar vara. Helztu fisktegundir í vatni þessu eru: Hvítingur, styrja, gedda, gullhöfði, sólfiskur, kattfiskur, geddu bróðir og sugfiskur. Allir eru fiskar þessir góðir átu, og veiðast á vorin, þegar ís leysir af vatninu, að hvítingnum undanskildum.

Landnámsmenn munu og hafa dýraveiðar eigi all litlar í skógunum, og er mest varið í elgveiðarnar. Á haustin er þar mesti fjöldi af fuglum, svo sem öndum og gæsum, og skutum vér nokkrar af þeim, þegar vér vorum þar.

Ber eru mikil í skógunum, svo sem jarðarber, ripsber, heiniber, bláber, o. s. frv.

Af eigin reynd getum vér lítið sagt um loptslagið, en mjög var það þægilegt þann tíma, sem vér vorum þar. Loptið var hreint og þurt. Mest allan tímann, sem vér vorum þar, var bjart veður og sólfar mikið, en nokkrir komu þrumuskúrir. Sólar hitinn var nokkuð sterkur, en jafnaðarlega leikur vindblær um Manitoba sléttumar, og dregur það úr sólarhitanum. Á Winnipeg vatninu er optast svalur andi. Á kveldin er alltaf svalt, þótt heitt sé á daginn. Sannorðir menn, sem hér hafa búið mörg ár, segja, að árstíðum hagi þannig. Vor byrjar í Aprílmánuði, en sumarveður byrjar ekki fyrir fullt og allt fyren í Maímánuði, en helzt þangað til í miðjum Septembermánuði. Haust er hér frá miðjum September til Októberloka. Vetur byrjar í Nóvembermánuði. Kaldara er hér en í Ontario, en snjóminna; en þeir menn, sem verið hafa á báðum stöðunum, segja, að þeir finni engu meir til kuldans hér.

Vestur strönd Winnipeg vatnsins höfum vér kosið til Íslendinga landnámsins, frá landamerkja línu Manitoba fylkisins norður að norður enda Miklu eyar, sem áður er talað um. Landnámið, er hérumbil 2 þingmanna leiðir á lengd, og 2 þorp lendur á breidd upp frá vatninu. Eyjuna sem er um 3 þorþlendur að stærð kusum vjer einnig.

Stjórnin í Ottawa lét oss vita með frétta þræði, að hún féllist á, að land þetta væri byggt Íslendingum einum. Verða landamerki betur ákveðin, þegar landið er mælt, og því skipt niður í þorplendur.

Land þetta hefir þessa kosti framyfir það land, er vér hefðim getað fengið annars staðar. Það liggur við vatn, sem fullt er af fiski. Alla leiðina frá Ontario og Quebec hingað má fara með járnbraut og á gufuskipum. Flutningar eru hægir með ströndum fram á sumrum og á ísi á vetrum. Suðurendi landnámsins er ekki meira en rúma þingmanna leið, eptir vatni að fara, þar sem járnbrautin frá Kanada til Kyrra hafsins á að liggja yfir Rauðará; en lengra vestur frá, er ekki svo langt frá því, sem ætlað er að leggja járnbraut þessa. Nálægt 300 manns vinna nú að járnbraut þessari fjórðung þingmanna leiðar fyrir austan Rauðará. Getur verið, að hún verði fullgjör héðan frá, og að Efra Vatni á tveim árum.

Skógur er nægur í landnámi þessu bæði til húsa og eldiviðar, en þó er eigi ervitt að ryðja landið, þvíað aspirnar eru ekki digrar, og rætur þeirra ná eigi langt niður í jörðina; veitir því hægt að pæla þær upp. Plægja má landið tveim árum eptir að skógurinn er höggvinn. Vér ætlum að telja megi það með kostum landnáms þessa fram yfir fylkið Manitoba, að hér stendur engin hætta af engisprettum, þvíað þær forðast skóglendi og mýrar. Þegar vér spurðum landsbúa hér, hvernig væri landkostir í Manitoba, og hvernig þeim er nýlega eru komnir hingað, félli hér, hafa allir svarað oss: "Landkostir eru hinir beztu, ef

eigi væri engisprettturnar. Þann annmarka finnum vér einan á landinu." Allir þeir, er hingað hafa komið frá Ontario, og vér höfum átt tal við, vilja heldur vera í Manitoba. Ef vér höfum numið land handa Íslendingum, þar sem enginn ótti stendur af engisprettum, eru þeir lausir við þenna annmarka Manitoba fylkisins. Tvennskonar skaðvænar flugur eru í landnámi voru, mýflugur "mosquitos" og bolahundar, sem kallaðar eru hrossaflugur í Ontario. Svartflugurnar eða blóðflugurnar eru landplága í Ontario, en hér eru þær ekki. Engin skæð dýr eru hér nema birnir og úlfar, en eigi stendur mikill geigur af þeim.

Þegar vér töluðum um fiskiveiðarnar, nefndum vér Indíana, sem búa við Winnipeg vatn. Má þess geta hér, að fáeinir lifa í tjöldum og kofum nálægt Sandrifi. Eigi þarf neinn ótti af þeim að standa, því að bæði eru þeir kristnir og siðaðir, og hinns vegar eru þeir af þeim flokki Indíana, sem friðsamastir eru. Hvergi finnst sá staður vestur frá, þar sem síður er að óttast Indíana en í landnámi voru. Þegar Íslendingar taka að byggja landnám sitt, verða og Indíanar þessir fluttir á annan stað.

Eptir því, sem vér höfum bezt vit á, er land það sem vér höfum numið til Íslendinga byggðar eins vel til þess fallið og nokkurr annarr staður hér vestur frá, og betur en nokkurr annarr staður, sem vér höfum átt kost á til þessa tíma.

*Winnipeg, Manitoba*, 5. Ágúst, 1875.

SIGTRYGGUR JÓNASSON.
*kjörinn sendimaður.*
EINAR JÓNASSON.
*kjörinn sendimaður.*

## SKÝRSLA SENDIMANNANNA FRÁ WISCONSIN.

Vér, sem ritum nöfn vor hér undir, höfum kannað land það, er sendimenn Íslendinga hafa numið handa þeim.

Vér vorum með þeim allan þann tíma, er þeir voru hér vestur frá, og vér lýsum yfir því, að vér erum þeim í öllu samdóma um landið og því, sem þeir hafa um það sagt í skýrslu sinni hér að framan.

*Winnipeg*, 5. Ágúst, 1875.

Skapti Arason frá Hringveri.
Sigurður, Kristófersson, frá Ytri Nes löndum.
Kristján Jónasson frá Hjeðinshöfða.

Rétt eptirrit, vitnar: Jón Taylor, fylgdar maður hinna íslenzku sendimanna.

---

## ÝMISLEGAR UPPLÝSINGAR.

Hið kanadiska ríki samanstendur af þessum fylkjum Quebec, Ontario, Nova Scotia, New Brunswick, Prince Edward's Eyju, Manitoba og Útnorður land, og British Columbia. Ríkið er allt 3,528,805 enskar ferhyrnings mílur að stærð. Innbúar eru um 4,000,000 að tölu. Að undanskildum öllum vötnum og óbyggilegu landi verða því að meðaltali um 2 höfuð á hverri ferhyrnings mílu.

Loptslagið er sjerlega heilnæmt. Eptir nýustu skýrslum hafa hlutföllin milli fólksfjölda og dáinna verið þannig: Í Kanada 1 af hverjum 98, í Bandaríkjunum í af hverjum 74 á Bretlandi 1 af hverjum 46, á Frakklandi 1 af hverjum 42 og á þjóðverjalandi 1 af hverjum 40.

Í engu landi í heiminum eru útgjöld eins lág og í Kanada. Á Bretlandi eru þau í samanburði við höfðatölu um 48 krónur á mann, en i Kanada minna en 16 krónur.

Kanada er í raun rjettri svo nálægt Englandi (frá Liverpool til Quebec er hin skemmsta sjóleið til Ameriku, meðaltalið er 9½ daga ferð), og samgöngurnar svo margvíslegar og skjótar, að það er öldungis ekki órýmilegt að vonast eptir, að Kanada muni, innan fárra ára, byrgja markaðina á Englandi með allskonar bændavöru með eins ljettu móti og Írland gjörði það fyrir 20 árum, með þeim mismun, að hinn kanadíski seljandi mun hafa langtum meiri ágóða. Það er nú orðið fullsannað, að kanadískir ostar og smjör er betra en á Bretlandi.

Mikill fjöldi nautgripa hefir verið fluttur á fæti frá austurfylkjunum Ontario og Quebec til Englands. Þetta ár (1875) hafa 734 nautgripir verið fluttir frá Montreal með einungis einni gufuskipa línu (Dominion línunni) þeir herrar Reeves og Frankland í Toronto og herra Price í Montreal fluttu nýlega til Liverpool 110 naut, sem að meðaltali vógu 1300 þund hvert, og sem seldust fyrir 500 krónur hvert.

Eptirfylgjandi greinarkorn er i Toronto blaðinu „Globe" dags. 25 Septbr. 1875.

„William Taylor, Bandaríkja Konsull í Winnipeg, Manitoba, sendi hinum mestu hveiti kaupmönnum í New York sýnishorn af Manitoba vor-hveiti. Þeir verðlögðu sýnishorn þetta 15 centum meir hvert ‚bushel' en nokkurt annað sýnishorn er þeir höfðu skoðað."



ISLENSK NYLENDA
UM 500 ENSKAR □ MILUR
GREENLAND
ICELAND
AKUREYRI
REYKJAVIK
QUEBEC TO REYKJAVIK
QUEBEC TO LIVERPOOL 2,502 MILES
STRAITS OF BELLEISLE TO LONDONDERRY 1710 MILES
PASSAGE FROM 5 TO 6 DAYS
LEITH
NEW YORK TO LIVERPOOL 2,980 MILES
NEW YORK
BRITISH COLUMBIA
C A N A D A
CHIEF WHEAT GRAINS ZONE AND WITH GRASSES
Projected CENTRAL CANADIAN RAILWAY
Lake Winnipeg
MANITOBA
BOUNDARY LINE BETWEEN CANADA AND THE UNITED STATES
QUEBEC
TORONTO
S. FRANCISCO
Stanford, Lith. Charing Cross